# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

13. árg. WINNIPEG, JANÚAR 1899. Nr. 11.

## Sálmr

eftir séra VALDEMAR BRIEM út af Matt. 4, 16.

(Lag: Sjá, ljós er þar yfir.)

1. Í myrkranna landi bjó mannanna hjörð,
guðs máttugur andi þá sveif yfir jörð.
En stjarnanna ljómi, sem lýst hafði nátt
og listanna blómi fór þverrandi brátt.
Þó ljómfögr glœddist hin lýsandi sól,
er lausnarinn fœddist um kristninnar jól.
Og myrkrið þá hræddist, húmið sig fól.

2. En mörgum í löndum þó myrkur er enn,
á mörkum og ströndum þó búa þeir menn,
á deginum björtum er sól þá ei sjá,
þeim svart er í hjörtum, þeir birtuna þrá.
En sólin æ hækkar og sunnar hún snýr,
og sviðið það stækkar, er lausnarinn býr.
Og myrkrið þá lækkar, ljósið það flýr.

3. En kristnum hjá lýðum er myrkrið hvað mest,
hjá mörgum svo tíðum ei frelsarinn sést.
Þeir menn eru blindir, sem mega' hann ei sjá,
en mannanna syndir þær skyggja þar á.

En skýin þó greiðast frá sólunni' um síð,
til sannleikans leiðast menn komandi tíð.
Og myrkrið þá eyðast öllum mun lýð.

4. Og dauðans í skugga þó erum vér enn;
hvað á þá að hugga oss, fáráða menn?
það dimmir þó fremr, er dagurinn þver,
er dauði vor kemur og myrkrið að ber.
En enn kemr dagr í austrinu skír,
svo ununarfagur og blessunarhýr.
Og gleðinnar hagr glœðist þá nýr.

## Davíðs sálmar.

Árið 1896 kom út fyrri partr Biblíuljóða séra Valdemars Briem, gamla testamentis ljóðin. Árið 1897 síðari partrinn, eða ljóðin út af nýja testamentinu. Og nú á árinu, sem leið (1898), sálmaverk hans út af Davíðs sálmum. Og þótt það sé gefið út sem verk út af fyrir sig, má vel líta á það sem einn part af Biblíuljóðunum. Í ljóðunum út af gamla testamentinu er, svo sem þeim er kunnugt, er það bindi hafa lesið, gengið fram hjá sálmum Davíðs, að öllu öðru leyti en því, að „Sigrsöngr Davíðs" („Guð er mitt vígi") er að nokkru leyti orktr út af 18. Davíðs sálmi. En það er sökum þess, að sami sálmrinn liggr fyrir í annarri nálega óbreyttri útgáfu í einni af sögubókum gamla testamentisins, 2. bók Samúels, í 21. kapítula þeirrar bókar. Séra Valdemar tekr þann sálm þar með af sömu orsök og höfundr þessarar bókar tók hann með inn í sögurit sitt. Í engri bók gamla testamentisins, eða biblíunnar yfir höfuð, er nú vitanlega eins mikið og margbreytilegt skáldskaparefni til eins og einmitt í Davíðs sálmum, hinni miklu guðinnblásnu sálmabók Ísraelskirkjunnar. Og frá trúarfrœðislegu eða guðrœkilegu sjónarmiði skoðað er enn þá meira varið í Davíðs sálma en nokkra aðra bók í gamla testamentinu, sem meðal annars er ljóst af því, að í nýja testamentinu er oftar til þeirra vitnað en nokkurs annars af ritum hins gamla

sáttmála. Í Davíðs sálmum höfum vér að því, er til trúarlærdómanna kemr, gamla testamentið allt í ágripi. Gamla testamentis opinberaninni allri þar lyft upp í hæsta veldi. Hjarta þeirrar opinberunar þar liggjanda opið fyrir öllum heiminum. Blóm hinna helgu trúarhugsana gjörvallrar aðventutíðarinnar, vonartíðarinnar á undan komu mannkynsfrelsarans, þar útsprungið. Og í og með því blómi kominn fram sá háfleygasti og dýpsti, einfaldasti og fegrsti, tignarlegasti og hjærtnæmasti skáldskapr, sem saga heimsbókmenntanna þekkir eða á til í eigu sinni. Auðvitað myndi þá sá maðr, sem sett hafði sér það fyrir eins og séra Valdemar að yrkja út af meginmáli allrar ritningarinnar, ekki vilja ganga fram hjá þessari miklu bók í biblíunni alveg þegjandi. En svo tók hann þá líka það ráð, sem lang-heppilegast var, að bíða með Davíðs sálma þangað til biblíuljóðunum öllum hinum væri lokið, yrkja út af þeim sérstaklega og fá það sálmaverk útgefið algjörlega út af fyrir sig. Og þá bók höfum vér nú fengið fyrir skömmu. Hr. Sigurðr Kristjánsson í Reykjavík er útgefandinn. Og hefir hann vandað útgáfuna í alla staði; nákvæmlega eins frá henni gengið eins og hinum tveim pörtum Biblíuljóðanna áðr.

En Davíðs sálmar séra Valdemars eru miklu fyrirferðarminni en hvort bindi Biblíuljóðanna fyrir sig. Gamla testamentis ljóðin eru 414 blaðsíður og nýja testamentis ljóðin 448. En Davíðs sálmarnir eru að eins 218 bls. En svo er og fyrirkomulag þessa síðast nefnda verks allt annað en á Biblíuljóðunum. Þetta eru allt *sálmar* — ,,Davíðs sálmar í íslenzkum sálmabúningi" eins og stendr á titilblaði bókarinnar. Einn sálmr út af hverjum frumsálmi í biblíunni, hver sálmr miklu miklu styttri en kvæðin í Biblíuljóðunum eru jafnaðarlega, hinn lengsti (sá 78.) tólf vers, en enginn styttri en þrjú vers. Tala Davíðs sálma er 150, svo sem kunnugt er. En út af hverri grein í hinum langa 119. Davíðs sálmi hefir séra Valdemar orkt sérstakan sálm. Greinir þessa Davíðs sálms eru 22, jafn-margar og stafirnir í hebreska stafrofinu. Og jafn-margir eru þá líka sálmar séra Valdemars út af þeim eina sálmi, svo tala allra sálma hans út af ,,saltaranum" verðr

þannig 171. — Bragarhættir Biblíuljóðanna eru eins og menn muna ákaflega breytilegir. En eigi er það síðr að því, er snertir Davíðs sálmana. Einlægt verið að skifta um bragarhætti í gegn um allt það verk. Engir tveir, því síðr fleiri, af þeim sálmum orktir undir sama lagi. Við Biblíuljóðin eru engir lagboðar settir, enda ekki frekar en verkast vill búizt við, að þau ljóð sé súngin. En Davíðs sálmarnir eru eins og hverjir aðrir sálmar beinlínis ætlaðir til söngs og lagboði því settur við hvern þeirra. Við fáeina af sálmunum hefir höfundrinn þó ekki fundið neinn íslenzkan lagboða, og er þá fyrir framan þá sálma sett: ,,með sínu lagi". Einn af þeim sálmum er nr. 126, sem samkvæmt frumsálminum lýsir fagnaðartilfinning hinna leystu bandingja, út af heimkomu þeirra úr útlegðinni. Upphaf þess sálms hjá séra Valdemar er þetta:

,,Í draumi glöðum
vér heim oss hröðum;
það harms er bót."

Það er inndæll sálmr eins og hann hefir frá honum gengið. Talað um heimförina eins og ferð yfir kalda heiði, eins og væri eftir einhverjum íslenzka fjallveginum, heimleiðis til hinna elskuðu átthaga. Og vonargleðin út af heimkomunni svo rík í hjarta ferðamannsins, að hún yfirgnæfir allt, breytir sársaukaefninu, sem liðna tíðin hafði í för með sér, í angrblítt lofsöngsefni. Sálmrinn er svo hœfilegr sem mest má verða til þess að vera sunginn í kirkjunni við útför látinna, lúinna, margreyndra kristinna pílagríma, og ætti því eins og svo margir aðrir af þessum sálmum endilega að komast inn í sálmabók kirkju vorrar. Hann er orktr undir sama bragarhætti og gamlaársdagsljóð séra Mattíasar Jokkumssonar frá 1890, er svo byrja:

,,Sem svanur stúrinn
eg sit í búri
um sólarlag."

Þau ágætu ljóð eru nú orðin talsvert kunnug mörgum Vestr-Íslendingum, með því þau hafa all-oft verið höfð yfir hér á samkomum og iðulega til þeirra vitnað endrarnær. Og nú er líka hér hjá oss fundið vel viðeiganda lag við þann söng, lag,

sem þá einnig á einkar vel við þennan Davíðs sálm séra Valdemars, og í rauninni enn þá betr en við hin ljóðin, með því að hjá séra Mattíasi eru eigi svo fáar óreglur í bragarhættinum, en allt slíkt teinrétt í sálmi séra Valdemars. Það lag, sem hér er bent til, er eftir Oehlenschlaeger, stórskáld Dana, kompónerað af honum sjálfum við ljóð þau eftir hann, er Bjarkamál (Bjarkemaal) nefnast.*)

Af Davíðs sálmum séra Valdemars hafa 28 áðr verið prentaðir — eftir því, sem vér bezt vitum: 6 í sálmabókinni frá 1886, 4 í „Kirkjublaðinu" og 18 í „Sameiningunni". Í sálmabókinni eru þessir: „Drottinn, vor konungr, dýrðlegt er nafn þitt hið blíða" (D. s. 8), „Hver sá, er vígi velr sér" (91), „Lof sé þér um ár og öld" (145), „Minn guð og herra' er hirðir minn" (23), „Þú, drottinn, guð minn, alskyggn ert" (139) og „Ó, syng þínum drottni, guðs safnaðarhjörð" (96). En þó er hér við að athuga, að í sálmabókinni er hinn síðast nefndi þessara sálma að eins þrjú vers, en í Davíðs sálmunum níu. Á sama hátt er sálmurinn „Minn guð og herra' er hirðir minn" lengdr um tvö vers frá því, sem er í sálmabókinni. Og í sálminum „Þú, drottinn, guð minn, alskyggn ert" er fyrra hluta 2. versins að orðalaginu til ofr lítið breytt, og sú breyting greinilega til bóta. — Sálmarnir, sem „Kirkjublaðið" hafði áðr komið með, eru: hinn 65., 90., 136. og 137. En þeir 18, sem áðr höfðu komið fyrir almenningssjónir í „Sameiningunni", eru þessir: 2, 18, 19, 22, 31, 36, 42, 49, 50, 51, 58, 77, 78, 116, 127, 130, 148, 150.

Átt hefir verið meðal vor Íslendinga við það áðr að yrkja út af Davíðs sálmum. Séra Jón Þorsteinsson í Vestmannaeyjum, sem lét lífið 1627 í áhlaupi tyrknesku sjóræningjanna og síðan fékk píslarvotts-viðrnefnið, sneri öllum Davíðs sálmum í ljóð, og var það sálmasafn þrisvar útgefið á prent, í fyrsta sinn að Hólum árið 1662. En sá kveðskapr er fyrir æfa-löngu gleymdr og dáinn þjóðinni, enda hefir vafalaust verið mjög ófullkominn. Aftr á móti hafa sálmabœkurnar íslenzku, sem sungið hefir verið á við hinar kirkjulegu guðsþjónustur, allt af

*) „Naar Odin vinker, naar Sværdet blinker, er Helten glad". — Melodier af A. Oehlenschlaeger, udgivne af Berggreen. Kh. 1857.

haft meðferðis nokkra útvalda Davíðs sálma, sem flestu öðru guðs orði fremr hafa náð sér niðri í trúarmeðvitund safnaðanna. Af þeim sérstöku sálmum í hinni gömlu mynd þeirra er nú reyndar nálega ekkert orðið eftir í íslenzku sálmabókinni nema lagboðarnir, eins og t. a. m.: ,,Af djúpri hryggð ákalla' eg þig'', ,,Nú bið eg, guð, þún áðir mig'', ,,Sælir eru, þeim sjálfur guð'', ,,Til þín, heilagi herra guð''. En vér höfum þó flesta þeirra í nýrri og vandaðri þýðing í sálmabókinni frá 1886 fyrir utan eina tíu, sem aldrei áðr höfðu komizt inn í hinn kirkjulega sálmasöng Íslendinga. Í registri sálmabókarinnar er þó við suma þeirra alls ekki getið um, að þeir sé orktir út af Davíðs sálmum. Þannig að því, er snertir sálm Grundtvigs: ,,Inndælan blíðan, blessaðan, fríðan, bústaðinn þinn'', sem vitanlega er orktr út af 84. Davíðs sálmi; og eins hinn gamla sálm séra Eiríks Hallssonar: ,,Til himins upp eg augum lít'', sem vafalaust í aðalefninu á rót sína að rekja til 121. Davíðs sálms (,,Eg lyfti mínum augum til fjallanna'' o. s. frv.).

Til þess að gjöra sér ljóst skáldskaparlegt verðmæti þessa sálmaverks séra Valdemars Briem er nú gott að bera það af Davíðs sálmum, sem áðr hefir af Íslendingum verið sett í ljóð og nú er öllum aðgengilegt, saman við tilsvarandi sálma eftir séra Valdemar. Í því skyni skulum vér benda á 1. Davíðs sálminn, sem hjá séra Valdemar byrjar svo:

,,Heyr drottins orð! Hve sæll er sá''.

Tilsvarandi sálmr í sálmabókinni eftir séra Helga Hálfdanarson er þessi:

,,Sæll er maðr sá, er eigi
samþykkt lætr vonzku ráð'' o. s. frv.;

eða í orðalagi hinna eldri sálmabóka:

,,Sæll er sá mann, sem hafna kann
hrekkvísra manna ráði'' o. s. frv.

Annað vers í þessum sálmi séra Helga hljóðar svo:

,,Hann er líkr viði vænum
vatna straumi tærum hjá.
Aldin þar á greinum grœnum
gróa tíma réttum á,

Visið lauf þar ekkert er,
allt um lífskraft vitni ber.
Eins þeim manni alla vega
auðna veitist sífelldlega."

Í sálmi séra Valdemars hljóðar þetta svo:

„Sem eik hann blómgast ung og bein,
upp er vex á bakka grœnum,
og limi þéttu' á laufgri grein
lyftir hátt í morgunblænum,
speglar sig í fögru fljóti,
fagrt brosir sólu móti,
angar blítt af grœnum greinum,
glitrar skært af döggum hreinum.
Hún aldin ber í tœka tíð
og traust hún stendr ár síð."

Út af 117. Davíðs sálmi hefir séra Helgi orkt versið nr. 25 í sálmabókinni:

„Lofið guð, ó, lýðir, göfgið hann" o. s. frv.

Það er vitanlega í alla staði óaðfinnanlegt vers, algjörlega svaranda til gamla versins, sem lagboðinn minnir á:

„Lofið guð, lofið hann hver sem kann".

En enn þá meira hefir þó séra Valdemar fengið út úr þeim stutta Davíðs sálmi — þetta:

„Ó, lofa skaparann, lífsins hjörð,
ó, lofið, prísið hann alla vega,
þér allir lýðir á allri jörð,
því allt hann gjörir svo dásamlega.
Já, lofið drottin!
:|: já, lofið drottin! :|:
Ó, lofið guð!

Ó, lofa frelsarann, lífsins her;
hann líf og sigr og frelsi gefr;
hans náð og miskunnin eilíf er,
og aldrei tryggðin hans brugðizt hefir.
Já, lofið drottin! o. s. frv.

Ó, lofa huggarann, lífsins fjöld;
hann lífið styrkir og dauðann þíðir;
hann leiðir kynslóðir öld af öld

og alla leiðir í dýrð um síðir.
Já, lofið drottin!" o. s. frv.

Hér er auðheyrt enn þá meiri lyfting og hátíðarbragr en í versinu út af sama sálminum í sálmabók vorri.

Göfugr og prýðilegr er hjónavígslusálmrinn, sem séra Mattías hefir orkt út af 127. sálmi Davíðs:

,,Ef heimilin og húsin með
vor herra blessar eigi" o. s. frv.

En vafalaust þykir flestum meira varið í tilsvaranda sálm séra Valdemars:

,,Til hvers er að byggja sér hús eða höll,
ef hann eigi byggir, sem reist hefir fjöll?
Ef herrann ei byggir, þá hrynr það valt,
ef hann með oss byggir, þá stendr það allt.
Ó, guð, að oss hygg,
með oss húsin vor bygg"—o. s. frv.

Út af 104. Davíðs sálmi hefir séra Stefán Thórarensen orkt sálm þann í sálmabókinni, er svo byrjar:

,,Mín sál, þinn söngr hljómi."

Tilsvarandi sálmr eftir séra Valdemar hefir þetta upphafsvers:

,,Ó, lofa þú drottin, guðs lifenda hjörð,
hinn lifanda drottin á himni og jörð;
ó, vegsama drottin, þú, veröldin öll,
hinn volduga drottin, sem reist hefir fjöll.
Hann ljósi sig skrýðir, það skín af hans fald,
hann skínanda himininn þenr sem tjald!
og dýrðlega hljómar: Hallelúja."

Eini sálmrinn í sálmabókinni út af Davíðs sálmum, sem oss virðist muni jafnast við tilsvaranda sálm eftir séra Valdemar, og ef til vill meir en það, er hinn áðr nefndi eftir Grundtvig í þýðing séra Helga Hálfdanarsonar:

,,Inndælan blíðan" o. s. frv.;

en svo er þá líka sá sálmr ekki frumorktr á íslenzku. Hinn tilsvaranda sálm byrjar séra Valdemar með þessu versi:

,,Hve yndislegt er æ til þín að snúa,
hve yndislegt, minn guð, hjá þér að búa;
laus allra anna

elsku þína kanna
í þinni tjaldbúð, herra herskaranna."

En þetta er óneitanlega daufasta versið í þeim sálmi.

Vert er að bera saman hinn nýja sálm í þessu sálmasafni út af 18. Davíðs sálmi við sigrsönginn út af sama efni, er áðr var kominn í fyrra parti Biblíuljóðanna. Á þann sigrsöng er allra snöggvast minnzt hér að framan. Upphaf hans er þetta:

„Guð er mitt vígi,
stoð og stigi,
styrkr, bjarg og virki traust;
guð, mitt skýli,
borg og býli,
brynja, skjöldr, kempa hraust;
Guð, mitt athvarf, hlíf og hjálmr!
heiðra skal þig nú minn sálmr.—
Davíð svo við drottin kvað."

En þetta er fyrsta versið í hinni nýju útgáfu sálmsins:

„Kom þú, minn kæri,
kappinn frábæri,
hetjan mín hrausta,
hlífin mín trausta,
hjálp mín og hœli,
herra minn sæli,
ást og inndæli!"

Annað versið í hvorum sálminum eða söngnum fyrir sig hljóðar svo:

„Dauðans bylgjur,
feigðarfylgjur
flöktu kring og sóttu' að mér.
Köldum höndum
hörðum böndum
helja reyrði mig að sér.
Kallaði' eg í angist minni
upp til guðs í hátigninni,
og hann heyrði andvarp mitt."

„Ógn dauðans œddi,
ógn vítis hræddi;
heljar sterk höndin
hart reyrði böndin.
Œpti' eg sem óðr,

óþolinmóðr:
Heyr, guð minn góðr!"

Í hinni eldri útgáfu er söngr þessi lengri — 12 vers; í hinni yngri að eins 9.

Í því, sem séra Valdemar hefir orkt út af 65. sálmi Davíðs, sést, að hann hefir þá sérstaklega verið að hugsa um náttúruna og lífið á Íslandi. Þar segir svo meðal annars:

„Vér búum út við heimskaut, en hér ert þú oss nær
og hér vér sjáum dýrð og vegsemd þína.
Á daginn björt oss sólin á himninum hlær,
í húminu nætrljósin skína."

Og seinna í sama sálminum þetta:

„Hér fagrir glóa hagar með fjöllum allt í kring,
og fénaðrinn dreifir sér um hvamma.
Hve fögr myndast umgjörð af fjallanna hring,
hve fögr er mynd í þessum ramma!"

Það er fegurðin í íslenzku fjallanáttúrunni, sem þar blasir við sálarsjón skáldsins. En í öðrum sálmi, hinum 137., út af hryggðartilfinning Ísraelsmanna í útlegðinni í Babýlon, ræðr önnur íslenzk hugsan hjá séra Valdemar, hugsanin um harðneskju náttúrunnar á Íslandi og eymdakjör fólks þar. Og með það í huganum kveðr hann svo:

„Vér dveljum hér í hörðu' og köldu landi,
sem heimtið þér vér köllum föðurland.
Hér er svo margt svo illt og óþolandi,
hér er svo margt, sem býr oss tjón og grand.
Þá slíkir harmar hjörtun þyngja,
ó, hvernig eigum vér þá gleðiljóð að syngja?"

Og enn fremr:

„Vér búum hér við fátœkt, stríð og fjötra
og fáum sjaldan nokkra glaða stund.
Vér lifum hér við harðan kost og tötra,
og hvernig er þá von, að glöð sé lund?
Þá slíkir harðir harmar þyngja,
ó, hvernig eigum vér þá gleðiljóð að sýngja?"

Þetta er íslenzkara en allt annað í Davíðs sálmum séra Valdemars. En myndi ekki þetta nálgast það að vera saknæmt eftir íslenzku lögunum um það að lasta ekki landið? Því ekki

er í þessum sálmi gefin nein von um betri tíðir fyrir Íslendinga þar heima á föðurlandi voru fyrr en komið er inn í eilífðina, á fund drottins. Þetta bendir ekki til þess, að framtíðarvonin í stjórnmálum og öðrum borgaralegum efnum sér mikil á Íslandi nú í seinni tíð, þó að svo geti virzt eftir ummælum blaðanna flestra og hinna eiginlegu pólitisku manna. Því á því er enginn vafi, að séra Valdemar er mjög bjartsýnn maðr, einhver bjartsýnasti Íslendingr, sem nú er uppi. Líklega kemst þessi sálmr hans aldrei inn í kirkjusönginn á Íslandi, og samkvæmt hlutarins eðli getr hann auðvitað ekki komizt inn í kirkjusöng Vestr-Íslendinga. En engu að síðr er sálmrinn ágætr og beinlínis kveðinn út úr hjarta íslenzku þjóðarinnar í nútíðinni.

Þó að Davíðs sálmar eins og þeir liggja fyrir oss í biblíunni sé í heild sinni eins mikið og dýrðlegt helgiljóðasafn eins og áðr er tekið fram, þá er skáldskapargildi þeirra eðlilega allmismunanda. Og væri þá auðvitað ósanngjarnt að ætlast til þess, að það, sem séra Valdemar hefir út af þeim orkt, væri í þeim skilningi allt jafnt. Sumir af þessum sálmum hans skara líka augsýnilega fram úr öðrum. Það yrði of langt mál, ef tilgreina ætti alla þá sálma í þessu safni, sem kalla má fram úr skarandi. Og í viðbót við þá, sem þegar eru nefndir, skulum vér því láta nœgja að benda á að eins þrjá slíka. Fyrst er það sálmrinn 130. Út af þeim Davíðs sálmi orkti Lúter iðrunarsálminn alkunna, sem í eldri sálmabókum vorum byrjar með þessum orðum: ,,Af djúpri hryggð ákalla' eg þig'', en í þýðingunni eftir séra Helga Hálfdanarson í nýju sálmabókinni þannig: ,,Úr hryggðardjúpi hátt til þín''. Fyrsta vers hans hjá séra Valdemar er þetta:

,,Úr djúpinu kalla eg, drottinn, til þín
í dýrðinni himnesku þinni.
Ó, virzt þú úr hæðinni' að heyra til mín
og hyggja að grátbeiðni minni.''

Og síðasta versið þetta:

,,Sjá, djúp eins og höfin og há eins og fjöll
er hörmungin, neyðin og syndin,

en stœrri' er en geimr og eilífðin öll
þín eilífa miskunnarlindin."

Þessu síðasta versi hefir höfundrinn lítið eitt vikið við frá því, sem er í „Sam." (VIII, 9).

Næsti sálmrinn, sem vér viljum benda á, er hinn 116. Ef til vill tekr hann öllum öðrum sálmum í þessu sálmasafni fram, og að minnsta kosti hefir hann snortið hjarta vort meir en nokkur annar. Vér tilfœrum tvö fyrstu versin í þeim sálmi:

„Ljómandi gleði lifnar í geði;
lít eg til þín,
alvaldi herra, öll léztu þverra
andvörpin mín.
Ljósanna faðir, eg lofa þig vil,
lofsyngja þér meðan hér er eg til."

„Dauðans í böndum, heljar í höndum
hnepptr eg lá.
Sjúkr og þjáðr, hryggr og hrjáðr
hrópaði' eg þá:
‚Eilífi faðir, ó, frelsaðu mig,
frelsaðu líf mitt, eg grátbœni þig.'"

Það hefir verið fundið að séra Valdimar sem skáldi, að hann legðist ekki nógu djúpt, kafaði ekki nógu langt niðr í djúpið. Þetta síðara vers sýnir þó, að honum er ekki ókunnugt um tilfinningar mannssálarinnar, þegar mótlætið hefir þrýst henni lengst niðr í undirdjúp sorganna. Sársaukinn, sem hér opinberast, er engu síðr djúpr en sá, er kemr fram í hinum dýrmæta gamla sálmi: „Heyr mín hljóð, himna guð." Munrinn að eins sá, að þar sem í þessum síðar nefnda sálmi er talað um sársaukann sem yfirstandanda, þá er hann hjá séra Valdemar hjáliðinn, hinn biðjandi maðr þar hugsandi um hið mikla lífsböl sitt horfið, sjálfan sig frelsaðan úr djúpi hörmunganna, svo bœnin verðr aðallega að lofsyngjandi þakkargjörð. En það, sem fegrst, dýpst og hæst er í þessum sálmi, verðr ekki til fullnustu skilið af öðrum en þeim, sem sjálfir hafa persónulega verið staddir í undirdjúpum hörmunganna og verið þaðan frelsaðir af drottni náðarinnar. Ljósaskiftin

í sálminum eru eins og mest geta orðið í mannlegu lífi. Til að yrkja slíkan sálm þarf stór-mikla trúaða andagift.

þriðji sálmrinn, sem vér vildum benda á, er hinn 150., seinasti sálmrinn í safninu. Upphafsversið er þetta:

,,Lofa guð þinn herra; hvar?
hvar skal lofa drottin?
Uppi, niðri, allsstaðar
á að lofa drottin.
Lofa guð í húsi hans,
helgidómi skaparans;
lofa, lofa drottin!"

Hér er svarað upp á spurninguna: *Hvar* á að lofa drottin? Í öðru versinu er spurt, *hve nær* eigi að lofa hann, og þeirri spurning svarað. Í versunum, sem þar fara á eftir, eru fram settar þessar spurningar: *Hví* — *hvernig* — *hvað* skal lofa drottin? og þeim svarað. Seinasta versið er þetta:

,,Lofa guð þinn herra; hvað?
hvað skal lofa drottin?
Hver ein sál í hverjum stað
heiðri' og prísi drottin.
Allt, sem hefir andardrátt,
allt, sem hefir líf og mátt,
lofi, lofi drottin."

Svona endar séra Valdemar þetta síðasta bindi ljóða sinna út af ritningunni. það er niðrlag, sem svo vel sem hugsast má á við Davíðs sálma í hinni upphaflega mynd þeirra og trúarskáldskap þann, sem út úr þeim er leiddr í þessu nýja íslenzka sálmasafni.

Að sjálfsögðu hefir séra Valdemar engan veginn tœmt efni Davíðs sálma með sálmum þeim, er hann hefir út af þeim orkt. Hann hefir mörgu sleppt, og það réttilega, en líka mörgu og miklu við bœtt frá eigin brjósti. Og á þann hátt fara nú allir að, sem taka sér yrkisefni úr sömu átt. En sumsstaðar finnst mönnum líklega, að of lítið af því, sem er einkennilegt við orðalagið eða hugsanabúninginn í sálmum Davíðs, komi fram hjá séra Valdemar. Yfir höfuð að tala finnst oss þó, að víðast hvar komi svipr hinna upphaflegu guðinnblásnu hebresku sálma vel skýrt fram í því, sem hann

hefir út af þeim orkt. Og vafalaust á séra Valdemar engu síðr þakkir skilið fyrir sálmaverk þetta en hvort fyrir sig af hinum tveim bindum Biblíuljóðanna, sem áðr voru útgefin.

## Trúarsamtalsfundr

var haldinn í kirkju St. Páls safnaðar í Minneota hinn 11. Desember, þriðja sunnudag í jólaföstu síðast liðinni. Var það fundarhald í sambandi við hinn árlega fulltrúafund safnaðanna í prestakalli séra Björns B. Jónssonar. Trúaratriðið, sem tekið var til umrœðu á þessum fundi, var hið sama sem uppi var á samtalsfundunum hér í söfnuðunum nyrðra í Nóvember: *sannr kristindómr*. Af prestum var enginn annar viðstaddr en heimaprestrinn þar, séra Björn.

Ársloka- eða áramótahátíð sunnudagsskóla Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg var í þetta skifti haldin á nýársdagskvöld, á vanalegum kvöldguðsþjónustutíma. Allt af áðr síðan sú hátíðarsamkoma komst á hefir hún verið haldin að kvöldi sunnudagsins milli jóla og nýárs. En af því að nú var enginn sunnudagr milli jóla og nýárs, var kvöld nýársdagsins til hennar haft. Að vanda var kirkjan við þetta tœkifœri skreytt fjölmörgum ljósum og grœnum garlöndum. Og fólk eins margt viðstatt og þar gat fengið sæti. — Samkoman var byrjuð með sálmasöng, biblíulestri og bœnahaldi á sama hátt og við er haft á undan kennslu í sunnudagsskólanum hvern sunnudag. En að öðru leyti var þetta prógramm samkomkomunnar: 1. Ávarp frá forstöðumanni skólans, presti safnaðarins. 2. ,,Syng fagnaðs óð, ó, frelsta jörð'', þýtt úr norsku af Sig. J. Jóhannessyni, lagið eftir Handel — sungið af stúlkum og drengjum. 3. ,,Það skeið, sem mönnum markað er'', þýtt úr þýzku af V. Br., lagið eftir Mozart—sungið af stúlkum og drengjum. 4. ,,Eg hef' vorfugls vængi borið'', þýtt úr norsku af V. Br., lagið eftir Silcher — sungið af drengjum. 5. ,,Kanverska konan'', kvæði eftir V. Br., mælt fram til skiftis af sjö stúlkum. 6. ,,There is a tender Shepherd'', enskr sálmr, sunginn af eldri og yngri börnum. 7. ,,Gleym mér ei'', þýzkt kvæði eftir Muechler, þýtt af Jóni Runólfssyni, lagið eftir Himmel — *solo*-söngr: stúlka. 8. ,,Fuglinn á grein'', þýzkt kvæði, þýtt af Jóni Runólfssyni, lagið eftir Anacker — sungið af stúlkum. 9. ,,Synd og náð'', smásaga,

mælt fram af dreng. 10 *Canon*: ,,Það bjarg, er aldrei stormar bifað neinir fá", þýtt úr dönsku af Vilhelm Pálssyni, lagið eftir Haydn — sungið af stúlkum. 11. ,,Abide with me", enskr sálmr eftir Lyte, sunginn af stúlkum*). 12. ,,Til sorgdala kljúfandi háloftin heið", *duet* eftir Rubinstein, þýdd úr þýzku af Jóni Runólfssyni, sungin af tveim stúlkum. 13. ,,Winter reigneth o'er the land", enskr sálmr með lagi eftir Sullivan, sunginn af stúlkum og drengjum. 14. ,,Lof sé þér um ár og öld", 145. Davíðs sálmr, settr í íslenzk ljóð af V. Br., sunginn — með lagi eftir Foersom — af stúlkum. 15. ,,Faðir-vor" tónað af öllum söngflokk skólans.

Í ávarpi sínu tók forstöðumaðr skólans meðal annars fram, að sunnudagsskólinn væri viðrkenndr sem stórveldi í kirkjulífi og þjóðlífi Norðr-Ameríku. Og nú væri íslenzka kirkjan og þjóðin farin að verða ofr lítið hluttakandi í þessu stórveldi. Upptökin væri eiginlega í þessum söfnuði. Á sunnudagsskólum í söfnuðum innan kirkjufélagsins íslenzka hér hefði samkvæmt skýrslu skrifara síðast liðið ár verið samtals 1360 nemendr og 103 kennarar. En auk þess væri sunnudagsskóli Tjaldbúðarinnar með 160 nemendum og 14 kennurum, samkvæmt því, sem staðið hefir í ,,Kennaranum", og sunnudagsskólinn á Gimli í Nýja Íslandi með 72 nemendum, þegar flest var í einu á síðast liðnu vori; tala kennara þar ekki tilgreind. Alls þannig meðal Vestr-Íslendinga á lúterskum sunnudagsskólum nálega 1600 nemendr, og kennarar um 120. — Á Íslandi sama starfsemin, sama aflið, einnig að komast inn í þjóðlífið með barnaguðsþjónustunum í Reykjavík, sem í rauninni væri sunnudagsskóli, að eins með nokkuð öðru formi eða fyrirkomulagi en hér tíðkast, — eftir danskri fyrirmynd.

---

,,ALDAMÓT" fyrir 1898, áttunda ár tímaritsins, er nú nýkomið út og verðr til sölu hér vestra hjá sömu mönnum og og að undanförnu. Ritið er í þetta skifti prentað í ,,Lögbergs" prentsmiðju hér í Winnipeg, en ekki eins og áðr í Reykjavík. Efni þessara ,,Aldamóta" er þetta: Fyrst eru *Landskjálfta-ljóð*, tólf samstœð kvæði eftir séra Valdemar

---

*) ,,Vertu hjá mér, halla tekr degi" (nr. 443 í íslenzku sálmabókinni) er þýðing séra Stefáns Thòrarensen á þessum inndæla og stórfræga enska sálmi, sem höfundrinn (enskr prestr) orkti skömmu fyrir andlát sitt, eftir að hann með veikum burðum var nýbúinn að flytja síðustu prédikan sína, árið 1847. Þýðing séra Stefáns er prýðilega vönduð. En af því hann hefir breytt bragarhættinum, verðr sálmrinn í þeirri þýðing ekki sunginn með sama dýrðlega laginu, sem við hann er á ensku.

Briem, orkt út af jarðskjálftanum á Íslandi 1896. Þar næst „*Quo vadis?*“, fyrirlestr sá, er séra Friðrik Bergmann, ritstjóri „Aldamóta“, flutti á síðasta kirkjuþingi. Þá er „Rœðan hennar móður hans“, þýdd saga eftir hinn fræga skozka prest og rithöfund Ian Maclaren. (Hið eiginlega nafn hans er John Watson, en hitt er nafn hans sem rithöfundar.) Næst er „Ambátt drottins“, kvæði eftir séra Mattías Jokkumsson. Þá er „Bindindi“, rœða eftir séra Jón Bjarnason. Þá „Tíðareglur kirkju vorrar“, ritgjörð eftir séra Friðrik til leiðbeiningar í hinu svo kallaða handbókarmáli. Og seinast „Undir linditrjánum“, ritstjórnargreinir um íslenzkar bókmenntir, með líkri gjörð og áðr hefir verið í „Aldamótum“. —Að undanteknum hinum mikla ljóðabálki séra Valdemars er mest-allt í þessu hefti ritsins beinlínis frá ritstjóranum sjálfum og það allt ágætt. Vonanda og óskanda, að vel verði nú við ritinu tekið af safnaðalýð vorum. Verðið er sama og áðr — 50 cts.

---

„Sameiningin“ er nú *skuldlaus* — í fyrsta sinni á æfi sinni síðan hún var eins árs gömul. Til þakklátrar viðrkenningar þess ætlar hún nú smásaman að koma með *myndir af vestr-íslenzku kirkjunum*, er þegar hefir verið komið upp af söfnuðum vorum. Og kemr fyrsta kirkjumyndin í þessu blaði, mynd af *kirkju Hallson-safnaðar* í prestakalli séra Jónasar A. Sigurðssonar. Kirkjuþing þessa árs verðr væntanlega haldið í þeirri kirkju. Hún er reist fyrir rúmu ári, og er hennar og systurkirkjunnar þar í næsta nágrenni dálítið getið í Apríl-blaði „Sam.“ í fyrra.

---

— Hjá ritstjóra „Sam.“ fást nú íslenzkar biblíur og nýja testament (frá brezka biblíufélaginu). Biblían kostar $1.45, nýja testamentið 60 cts.

---



---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

---

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.